Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Ert þú áskrifandi að vikublaði verkafólks?

Málgagn Kommúnistaflokks Íslands/Marxista-Lenínista

38. tölublað | Þriðjudagurinn 10. október 1978 | 7. árgangur | verð kr. 100.-

# Grunnskólakennarar

Grunnskólakennarar í Reykjavík héldu glæsilegan fund í Gamlabíói sl. mánudag. Húsfyllir varð og mikill hugur í mönnum.

Í ræðu á fundinum var lögð rík áhersla á sameiningu kennara í eitt félag. Samþykkt var einnig ályktun þar sem kröfur grunnskólakennara eru ítrekaðar og skorað á menntamálaráðuneyti að verða við þeim.

Fundarmenn færðu sig út á Arnarhól fyrir framan menntamálaráðuneytið til að sýna samstöðu sína.

Viðbrögð ríkisstjórnarinnar hafa verið öll á eina lund. Ráðherrarnir hafa að vísu falið sig bak við embættismenn sína en boðskapurinn fer ekki á milli mála. Þeir segja að þetta sé það stórt mál að einungis megi afgreiða það í kjarasamningum. Það á semsagt að hunsa algerlega réttmætar kröfur kennara.

Þessi ríkisstjórn hefur sýnt sig vera engu betri launþegum þótt hún kalli sig það. Hún skerðir kjörin og stendur gegn kjarabótum eins og fyrirrennari hennar. Í því nýtur hún dyggrar aðstoðar þjóna sinna innan launþegahreyfingar innar.

Þegar þetta er ritað hafa kennarar lagt mál sitt fyrir kjaranefnd. Úrskurður hennar er væntanlegur í byrjun vikunnar.

Hver sem sá úrskurður verður þá er óhætt að fullyrða að barátta kennaranna er rétt að byrja.

Ríkisstjórnin mun ekki samþykkja neitt ótilneydd.

Ekki var hlustað á meinatækna fyrr en þeir voru á leið út úr sjúkrahúsunum. Þá var í snatri gengið til móts við þá.

Sama gildir um grunnskólakennara. Aðeins barátta færir þeim sigur.



Meðan forystumenn grunnskólakennara afhentu menntamálaráðherra ályktunina stóðu fundarmenn á Arnarhóli til að sýna samstöðu sína.

# Íslensk fyrirtæki erlendis

Nýlega var staddur hér á landi erindreki bresku stjórnarinnar. Ferð hans var farin til að kynna íslenskum iðnrekendum hvað þeir geti fengið góða aðstöðu í Bretlandi við að arðræna breskan verkalýð.

Ekki er annað sýnna á viðbrögðum íslenskra iðnaðarkapítalista en að þeir fari að flytja innan tíðar. Ástæðan er einfaldlega sú að hér á landi er dýrara að framleiða vegna annars vegar lítils heimamarkaðar og langrar vegalengdar til annarra markaða hinsvegar. Á Bretlandi er hinsvegar mikið atvinnuleysi og hyggst breska stjórnin bjarga því með innflutningi iðnaðarfyrirtækja.

Fer þá að bætast við þann hóp íslenskra iðnfyrirtækja sem þegar starfa erlendis. Nú þegar eru að minnsta kosti tvö slík í Bretlandi, SH og SÍS verksmiðjurnar í Bandaríkjunum, angi af Breiðholti hf. í Nígeríu auk allra fyrirtækja Flugleiða hf.

Það er lenska atvinnurekenda að tala um ábyrgðarleysi verkalýðshreyfingarinnar gagnvart atvinnuvegunum um leið og þeir berja sér á brjóst og þykjast vera meginatriði íslenskrar hagskipunar og velsældar.

En hver er hollusta iðnaðarkapítalistanna?

Jú, samstundis og harðnar í ári hér og betri auðránsaðstaða fæst annarsstaðar þá er tækifærið gripið.

Þá kemur þeim atvinnuleysi ekkert við. Þá er einungis sem endranær hugsað um hámarksgróðann og á hvern hátt megi láta sem mest af honum lenda óskipt í vasa atvinnurekandans.



Herstöðvaandstæðingar verða að auka baráttu sína gegn báðum risaveldunum

# Landsráðstefna herstöðva andstæðinga

Landsráðstefna herstöðvaandstæðinga verður haldin helgina 20.-22. þessa mánaðar.

Stéttabaráttan hvetur alla herstöðvaandstæðinga til að undirbúa sig vel, taka þátt í starfi og umræðum hverfahópa og kynna sér tillögur sem lagðar hafa verið fram. Landsráðstefnan er æðsta vald í málefnum herstöðvaandstæðinga og því mjög mikilvægt að sem flestir komi.

Ráðstefnan verður haldin í Sigtúni.

# Burt með bónusinn



Verkakonur verða að byggja upp virka andstöðu gegn bónuskerfinu

Eins og lesendum Stéttabaráttunnar er kunnugt þá er bónuskerfi ríkjandi í flestum ef ekki öllum frystihúsum í Reykjavík og víðar. En hvað þýðir bónus og hvaða tilgangi þjónar bónuskerfið? Bónus er reiknaður ofan á venjulegt tímakaup út frá nýtingu hráefnis og hraða. Eftir því sem meiri nýting og hraði er, því hærri bónus færðu á kaupið þitt. En ef nýting er léleg en hraði mikill þá færðu ekki eins mikinn bónus því hlutfall á milli verður að vera jafnt, þ.e. þú verður bæði að vinna eins hratt og þú getur auk þess að vinna hráefnið eins vel og ætlast er til.

Hvaða tilgangi þjónar þetta fyrirkomulag? Í fyrsta lagi þá þjónar þetta engum öðrum en atvinnurekandanum.

Með þessu fyrirkomulagi græðir hann meira heldur en með tímakaupsfyrirkomulagi. Hvernig þá? Jú, í bónus þá verður þú að afkasta sem mestu ef þú vilt fá háan bónus og það þýðir að meira af hráefni fer í gegnum frystihúsið heldur en t.d. í tímavinnu. Í öðru lagi þá skapar þetta fyrirkomulag samkeppni og sundrungu hjá verkafólki. Þetta kallar á nauðsynina að binda endi á þessa þrælkun.

Framhald á síðu 2

LEIÐARI

# Sovétríkin ógna heimsfriði

Undanfarin tíu ár eða allt frá innrás Sovétríkjanna í Tékkóslóvakíu 21. ágúst 1968 hafa Sovétríkin afhjúpað í enn ríkari mæli heimsvaldaeðli sitt. Þau hafa ekki eingöngu hert kúgunartök sín á ríkjum Austur-Evrópu heldur hafa þau seilst til áhrifa í öllum álfum heims. Allsstaðar þar sem þjóðir heims heyja baráttu fyrir sjálfstæði sínu gegn bandarísku heimsvaldastefnunni hafa Sovétríkin reynt að smeygja sér inn undir yfirskini sósíalisma og alþjóðahyggju öreiganna. En raunverulegur tilgangþeirra er að taka við þar sem USA verður frá að hverfa . Dæmi um þetta er Víetnam og Angóla svo eitthvað sé nefnt.

Í Víetnam hafa sovéskir hernaðarráðgjafar tekið við af þeim bandarísku og sovéski flotinn hyggst koma Víetnam til "verndar". Og stjórnin í Hanoi lét ekki á sér standa að sýna Brésnef þakklæti sitt. Hinum hetjulega frelsisher víetnama var þegar í stað snúið gegn Kambódíu sem gerst hafði svo djörf að heimta sjálfstæði sitt án fulltingis sovésku heimsvaldasinnanna. Og í dag keppast þeir við að koma herliði sínu í árásarstöðu við landamæri Kína og Víetnams. Á þann veg er það frelsi og sá friður sem Sovétríkin hafa í hyggju fyrir hina hetjulegu víetnömsku þjóð. -Í Angóla og raunar hvarvetna í Afríku þar sem alþýðan berst fyrir frelsi og friði hafa Sovétríkin ætlað sér sama hlutverk. Þar hefur ríkisforinginn Brésnef teflt fram kúbönskum hersveitum vopnabróður síns, Kastrós. En herleiðangur Kastrós minnir óneitanlega á heimsvaldabrölt Mússólínis og fasistasveita hans í Eþíópíu fyrir aðra heimsstyrjöldina. Og hversu hjákátlegt sem það nú er þá er það einmitt í eyðimörkum Eþíópíu sem Kastró hittir fyrir ofjarla sína, - hina hetjulegu erítrísku alþýðu. Það getur engum dulist sem fylgst hefur með þessu stigmagnaða heimsvaldabrölti Sovétríkjanna að þau eru helsta uppspretta nýrrar heimsstyrjaldar.

Þessvegna er brýn nauðsyn fyrir verkalýð og alþýðu heimsins að taka upp baráttu gegn þessum heimsvaldasinnum sem veifa rauðum fána í annarri hendinni en hafa blóðugan rýting kúgarans í hinni. Íslenskir andheimsvaldasinnar. Herðum baráttuna gegn sovésku heimsvaldastefnunni og afhjúpum svik hennar og samsæri gegn sósíalísku byltingunni.

Gegn báðum risaveldunum, USA og USSR.

8. okt. 1978.

# Umræðufundur KFÍ/ML og EIKm-l

Framhald af baksíðu

stofnun eins kommúnistaflokks í huga. Alltof mikið hefði verið af því að bæði EIK m-l og KFÍ M/L reyndu að yfirdrífa eigið ágæti, ætti þetta sérstaklega við um EIK m-l.

Eftir að fluttar höfðu verið framsöguræður var flutt menn ingarefni. Var það á köflum allgott, en heldur þótti ýmsum vera of langt gengið þegar farið var að lýsa alþýðustríðinu á Íslandi í smátriðum. Hvernig Reykjavík var tekinn úr höndum borgaranna.

Síðan voru almennar umræður og fyrirspurnir.

Þar komu fram margar fyrirspurnir sem ekki vinnst pláss til að taka fyrir núna.

Lokaorð Ara voru á þá leið að ekki kæmi til greina nein bein samskipti við KFÍ/ML fyrr en hann hefði gert upp við forsögu sína. Hann sagði einnig að lok opna svarsins frá KFÍ M/L til EIK m-l sem birtist eins og áður hefur verið sagt í síðustu Stéttabaráttu, hefðu verið á þá leið að við vildum skilyrðislausa sameiningu. Þarna fer hann með staðlausa stafi því í lokaorðum bréfsins stendur orðrétt.". . Við teljum okkur hafa svarað sameiningargrundvellinum eins nákvæmlega og hægt er að svo komnu máli. Stefnuskrá KFÍ/ML og ályktanir 2. þings flokksins standa að öðru leyti fyrir afstöðu KFÍ/ML. KFÍ/ML er tilbúinn til nánari viðræðna við EIK m-l um öll atriði þessa svars sem og Sameiningargrundvöllinn, stefnuskrá KFÍ/ML og allt annað sem viðkemur starfi og stefnu m-l hreyfingarinnar á Íslandi. KFÍ/ML telur rökrétta niðurstöðu þessa svars vera auknar viðræður og samstarf milli KFÍ/ML og EIK m-l með sameiningu m-l ista að markmiði.". (undirstrik. greinarhöf.)

Þarna kemur fram að sameiningin er ekki markmið í sjálfu sér, heldur verða að fara fram umræður og starf milli samtakanna áður en af sameiningu getur orðið.

Gunnar Andrésson gerði það að lokaorðum sínum að aukin starfræn og pólitísk eining milli samtakanna væri nauðsyn. Bæði KFÍ/ML og EIKm-l væru marx-lenínísk samtök þrátt fyrir að þau hefðu gert margar villur á undanförnum árum. Þeirri spurningu var fleygt fram á fundinum hvort KFÍ/ML myndi styðja 1. des nefndina og 8. mars hreyfinguna og er svarið hiklaust játandi, vegna þess að þessar hreyfingar eru framsæknar og styðja baráttu verkalýðsins.

Niðurstaðan af fundinum er sú að ekki örlar á sameiningarvilja hjá EIKm-l, því miður því það er nauðsynlegt fyrir íslenskan verkalýð að eignast forystusveit í harðnandi stéttarátökum.

Vonandi verður áframhald af þessum fundum milli EIK m-l og KFÍ/ML því einungis þannig verður um einhverja sameiningu að ræða.




Bæklingurinn "Hvað vill KFÍ/ML" hefur að geyma allar samþykktir stofnþings KFÍ/ML, þar á meðal er stefnuskrá flokksins og reglugerð. Einnig eru í bæklingnum fjöldi ályktana. Í inngangi að bæklingnum stendur m.a.: "Tilraunir til að viðhalda smáhópaskipulagi marxísku-lenínísku hreyfingarinnar eftir stofnun flokksins eru skemmdarverkastarfsemi og algerlega andstæðar hagsmunum verkalýðsstéttarinnar". "Hvað vill KFÍ/ML" fæst í Rauðu Stjörnunni (sjá nánar auglýsingu frá búðinni). Við hvetjum alla sem áhuga hafa á að kynna sér stefnu KFÍ/ML til að verða úti um stefnuskrána. Ályktanir II. þings KFÍ/ML má svo finna í Stéttabaráttunni 13. tbl. 1978.




## ATVINNUREKENDUR BORGA EKKI UMSAMIÐ GJALD TIL STÉTTARFÉLAGANNA

Það hefur marg oft komið fyrir að atvinnurekendur trassa viljandi að borga gjald það sem þeir hafa hirt af verkamönnunum til stéttarfélaganna. Nema þessar skuldir svimandi upphæðum hjá ýmsum fyrirtækjum.

Verkalýðsfélögin verða að reka á eftir því að þessar greiðslur komist til skila. Félag járniðnaðarnema hefur hafið herferð gegn mörgum fyrirtækjum sem taka reglulega af starfsmönnum sínum, en hafa ekki um ómunatíð innt þær af hendi. Má þar nefna fyrirtæki eins og Stálvík og fleiri smiðjur.

Þessi fyrirtæki inna ekki einu sinni af hendi greiðslur til lífeyrissjóðanna, því marg oft hefur það komið fyrir að ef menn hafa ætlað að fá lífeyrislán úr viðkomandi lífeyrissjóði, þá kemur það í ljós að greiðslur hafa ekki verið inntar af hendi. Andvaraleysi verkalýðsforystunnar í þessum málum er yfirgengilegt. Verkamenn verða að taka þessi mál upp á félagsfundum og krefjast þess að eitthvað raunhæft verði gert í þessum málum.

## BURT MEÐ BÓNUSINN

Framhald af forsíðu

Því í bónus eru aðeins konur. Þær hamast allan daginn í fiski svo þegar þær koma heim þá taka heimilisstörfin við með öll sín vandamál. Auk þess eru þær svo þreyttar þegar heim er komið að öll þátttaka í félagsstörfum er engin. Þessu verður að breyta Með afnámi bónuskerfisins að markmiði þá verða allar verkakonur að byggja upp virka andstöðu í öllum vinnustöðvum þar sem bónus er. Verkakonur munu koma til með að fá engan stuðning frá verkalýðsforystunni, því hún hefur í gegnum árin mikið rómað bónuskerfið.







## HAFIÐ SAMBAND VIÐ KOMMÚNISTAFLOKK ÍSLANDS M-L

Miðstjórn og ritstjórn Stéttabaráttunnar: sími 27810 og pósthólf 1357 121 R. einnig í Rauðu Stjörnunni bókabúð, Lindargötu 15, opið mánud. - föstud. kl. 16:00 - 18:30.

AKUREYRI
Jón Atli Játvarðsson
Skarðshlíð 30.

KEFLAVÍK
Einar Jónsson
Sólvallagötu 40c.

HAFNARFJÖRÐUR
Fjóla Rögnvaldsdóttir
Reykjavíkurvegi 24.

HELLISSANDUR
Sigfús Almarsson
Hellisbraut 10.

HORNAFJÖRÐUR
Margrét Einarsdóttir
Silfurbraut 2

SVÍÞJÓÐ
Kristján L. Guðlaugsson
Kämnärsvägen 11 N:220
222 46 LUND


## Til lesenda

Eins og lesendur hafa eflaust tekið eftir tafðist útsending á 36. og 37. tbl. Stéttabaráttunnar verulega. Er hér um að ræða frjálshyggju í starfi útsendingarhóps og mun mál þetta verða tekið fyrir og séð svo um að þetta endurtaki sig ekki í framtíðinni.

# Lærdómar af 5.bindi Maó formanns

## Einangrunarstefnan

Í síðustu grein var vitnað til orða Maó formanns, þar sem hann segir að "vinstri" frávik séu . . . "að vera fljótfær í framkvæmd og afstöðu sinni til grundvallarreglna og pólitíkur og slá blint frá sér í baráttu og deilum." (5. bindi bls. 167)

Eiga þessi orð Maó formanns við um einangrunarstefnuna innan marxísku-lenínísku hreyfinguna á Íslandi? Já, vissulega. Í sameiningarviðræðum Kommúnistaflokksins og EIKm-l sem fóru fram haustið 1975 og fram á vor 1976, komu þessi einkenni skýrt fram hjá báðum aðilum. Bæði samtökin hrösuðu að aðgerðum og yfirlýsingum sem urðu til þess eins að sundra og torvelda sameiningu. Við getum hér nefnt sem dæmi útgáfu bæklings EIKm-l haustið 1975 þar sem Kommúnistasamtökunum var lýst sem "gagnbyltingarsinnaðri glæpaklíku" skömmu eftir að umræðurnar höfðu hafist. Útgáfa þessa bæklings var fljótfærni af þessu tagi og hún olli strax frá upphafi deilum sem síðan voru aldrei settar niður. Við getum nefnt sem dæmi kappræðufund samtakanna í janúar 1976. Þar veittust bæði samtökin hvort að öðru opinberlega og fundurinn gerði meira ógagn en gagn. Við getum enn nefnt sem dæmi skrif EIKm-l í Þjóðviljanum 30. apríl 1976, þar sem nýstofnuðum Kommúnistaflokki Ísland m-l er lýst sem "tilræði við verkalýðsstéttina" og hann kallaður ýmsum ónefnum. Og þessi skrif komu í kjölfar sameiginlegrar yfirlýsingar samtakanna í marslok um að mikilvægasta verkefni þeirra væri sameining. Hægt væri að nefna mýmörg dæmi, sem sýna fram á einkenni einangrunarstefnunnar innan hreyfingarinnar. Þau sýna öll fljótfærni í aðgerðum og yfirlýsingum. Og enn er hægt að nefna afstöðuna til grundvallarreglna og pólitíkur. Hafa samtökin kappkostað að leysa skoðanaágreining sinn sem andstæður meðal alþýðunnar, eða hafa þau litið á hann sem andstæður milli fjandmanna? Með vissum undantekningum hefur Kommúnistaflokkurinn alltaf litið á skoðanaágreininginn sem andstæður meðal alþýðunnar og haft þá afstöðu að hægt væri að leysa hann með félagalegum umræðum og gagnrýni og sjálfsgagnrýni. Hér hefur flokkurinn stundum verið ósamkvæmur sjálfum sér, en í heildina tekið hefur hann haft rétta afstöðu og villurnar hafa alltaf verið leiðréttar. EIKm-l hefur hins vegar litið á þennan skoðanaágreining sem andstæður milli kommúnista og endurskoðunarsinna, þ.e. milli verkalýðs og borgarastéttar. Slíkar andstæður eru ósættanlegar í eðli sínu, en samt sem áður vill EIKm-l sameiningu. Hvernig er hægt að sameina hið ósættanlega, hvernig er hægt að sameina marxisma og endurskoðunarstefnu? Það er ekki hægt. Sýnir þetta ekki, að mat EIKm-l á eðli andstæðnanna er rangt og að samtökin hafa í verki viðurkennt það, með því að bjóða Kommúnistaflokknum sameiningu? Í orði segja þau Kommúnistaflokkinn vera gagnbyltingarsinnaðan - því endurskoðunarsinnar eru ekkert annað en gagnbyltingarsinnar - í verki bjóða þau honum sameiningu. Aðeins tvennt er mögulegt. Annað hvort hafa EIKm-l hrasað hér að afstöðu sinni til grundvallarreglna að hætti "vinstri" hentistefnunnar, eða þau meina ekki það sem þau segja þegar þau bjóða flokknum sameiningu. Hvort er rétt?

Enn er það að slá blint frá sér í baráttu og deilum. Milli samtakanna ríkir barátta og deilur. Ef bæði samtökin hefðu díalektíska afstöðu til málsins, myndi ekki aðeins ríkja barátta, heldur líka eining. Þetta er grundvallaratriði í baráttuaðferð kommúnista. Kommúnistaflokkurinn hefur fylgt díalektískri afstöðu, hann hefur barist gegn rangri afstöðu EIKm-l og jafnframt hefur hann stutt baráttu EIKm-l gegn borgarastéttinni og reynt að skapa einingu á milli þeirra í starfi og stefnu. EIKm-l hefur hins vegar lýst því margoft, að þau vilji ekki ræða við flokkinn og ekki starfa með honum að þau vilji aðeins baráttu en enga einingu. Þetta er frumspekileg afstaða og hún er til ills eins. Allt of mikið hefur borið á yfirlýsingum um félaga samtakanna og þar eiga báðir aðilar sök, þótt satt best að segja eigi EIKm-l metið einnig í þessu tilliti. Hvernig á að berjast

**2.grein**

gegn einangrunarstefnunni? Maó Tse-tung segir: "Hvað varðar baráttuna gegn einangrunarstefnunni verður að benda sérstaklega á það atriði, að ykkur er nauðsynlegt að sameinast þeim sem hafa barist gegn ykkur. Þeim sem hafa höggvið nærri ykkur, slegið ykkur flata, valdið ykkur þjáningum og ærumissi og skreytt ykkur "opinberu sæmdarheiti" hentistefnumannsins, þrátt fyrir að þið hafið ekki verið svo illa afvegaleiddir. Ef höggin voru réttmæt, voru þau ykkur mátuleg. Ef þið voruð hentistefnumenn, hví skyldu þeir ekki hafa slegið til ykkar? Það sem ég er að tala um hér, eru óréttmæt högg og barátta. Þegar þeir sem slegið hafa slík högg breyta afstöðu sinni og viðurkenna að þeir höfðu rangt fyrir sér, er þeir réðust gegn ykkur og að það var rangt að krýna ykkur "konung" hentistefnunnar, þá skuluð þið láta málin niður falla að svo komnu. Ef fáeinir geta ekki viðurkennt að þeir höfðu rangt fyrir sér, þá ættuð þið að geta beðið. Ég held þið getið það. Með einingu eigum við við sameiningu með þeim sem hafa aðrar skoðanir en þið, líta niður á ykkur eða sýna ykkur litla virðingu, þá sem hafa átt í útistöðum við ykkur eða barist gegn ykkur og valdið ykkur þjáningum." (5.bindi bls.318, ensk útg.)

EIKm-l hafa kallað Kommúnistaflokkinn "gagnbyltingarsinnaða glæpaklíku", "endurskoðunarsinnaðan flokk" osfr. Þau hafa veist að foringjum hans og félögum með óhróðri og svívirðingum og sæmt þá ýmsum niðrandi titlum. Æskir Kommúnistaflokkurinn hefndar? Nei, þegar EIKm-l viðurkennir að þessar starfsaðferðir eru rangar, er hægt að láta málin niður falla þar með. Og á hinn bóginn, EIKm-l og forysta þeirra hefur verið sæmd ýmsum niðrandi titlum af Kommúnistaflokknum. Ef Kommúnistaflokkurinn viðurkennir að þessar starfsaðferðir eru rangar, geta EIKm-l þá ekki látið málin niður falla þar með? Ef báðir aðilar eru kommúnistar en ekki einangrunarsinnar ætti þetta að vera auðvelt. Að bera klæði á vopnin í þessu tilliti þýðir engan veginn að pólitískum ágreiningi hafi verið stungið undir stólinn. Það þýðir aðeins að snúist verður við lausn hans á marxískan hátt, en ekki einangrunarsinnaðan. Ígrundum afstöðu okkar til framkvæmda, grundvallarreglna og pólitíkurinnar og sláum ekki blint frá okkur í baráttunni og deilum. Þetta eru lærdómar af kenningum Maó Tse-tungs sem nauðsynlegar eru marxísku-lenínísku hreyfingunni á Íslandi.


Mikill áhugi ríkti meðal kínverskrar alþýðu er 5. bindið kom út

# Fangelsi í Kína

Leynilega réttarhöld fóru fram í fangelsinu. Fangar voru hlekkjaðir á höndum og fótum við komuna og oft á tíðum misþyrmt.

Fæði var lélegt. Kaupmenn notuðu tækifærið því þarna voru "viðskiptavinir" sem ekki þýddi að kvarta. Ef fangi veiktist varð hann sjálfur að borga læknisaðstoð og lyf. Þeir sem ekkert áttu til að borga með fengu litla aðstoð.

### Fangelsi eða verksmiðja

Þótt fangelsið liti út eins og venjulegt fangelsi að utan, ef frá er talinn trjágróður og íþróttaaðstaða, þá var slíkt ekki hægt að segja um húsið innan dyra. Af því að fangelsi í Kína er endurhæfingarstofnun eins og rakið verður síðar, þá er mikið lagt upp úr vinnu og enduruppeldislegum áhrifum hennar. Fangelsið er raunar nokkrar verksmiðjur. Þarna eru saumastofur þar sem ýmiskonar fatnaður er framleiddur, prentsmiðja sem framleiðir allt frá stílabókum til litprentaðra myndaalbúma og auk þess verksmiðja sem framleiðir hluti í úr.

Klefarnir eru frekar litlir og einungis notaðir til að sofa í.

Vinnusalirnir eru stórir og bjartir. Það vakti sérstaka athygli eins okkar, sem fengist hefur við prentun, hvað prentvélarnar virtust fornfálegar en samt óvenju hraðvirkar. Skýringin á útliti þeirra var sú að öll tækin í prentsmiðju fangelsisins höfðu verið framleidd í fangelsinu af föngunum.

Ein byggingin var sjúkrahús og lyfjaverksmiðja. Allir fangar fá sjúkrahjálp og lyf ókeypis. Þarna voru einnig framleidd lyf eftir hefðbundinni kínverskri aðferð.

### Refsing og endurhæfing

Dæmdir fangar koma hér til refsingar og endurhæfingar. Refsingin er frelsissvipting í ákveðinn tíma sem notaður er notaður er til endurhæfingar með það að markmiði að fanginn snúi frá villu síns vegar og verði nýtur þegn þjóðfélagsins.

Fangelsið var tæki yfirstéttarinnar til að kúga og þagga niður í öllum andstæðum öflum og öllum sem ekki lutu boðum hennar og bönnum í öllu í höndum verkalýðsins í Kína er það tæki alræðisins gegn óvinunum og tæki til að endurhæfa fanga. Þarna skilur á milli eftir því í höndum hverrar stéttar valdið er. Borgarastéttin hefur áhuga á að taka úr umferð þá sem setja sig á móti reglum, en verkalýðsstéttin vill endurhæfa þá svo að þeir geti notið sín sem frjálsir einstaklingar.

Endurhæfingin fer að hluta til fram gegnum vinnuna. Maó formaður sagði: "Sameinum endurhæfingu og vinnu." Samkvæmt því eru fangar skipulagðir í vinnu. En endurhæfing er líka á annan hátt samhliða vinnunni. Það er menntun.

Eftirfarandi vígorð eru höfð fyrir þessu starfi:
1. Að sameina refsingu og vinnusemi.
2. Að sameina fræði og starf.
3. Að sameina stéttabaráttu og mannúð.

Vinnan og menntunin er notuð til að endurmennta fangana, venja þá af borgaralegum hugsunarhætti sem oft leynist bak við afbrotin.


Ofbeldi og pyntingar voru daglegt brauð í Kína fyrir frelsun

Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Útg: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
38. tbl. þriðjudaginn 10. október 1978

STÉTTABARÁTTAN
-kemur út vikulega-
Sími: 27810.
Gíró: 27810-6.

Ábyrgðarm: Sigurður Ingi Andrésson.



# Fangelsi í Kína

## *Fyrri hluti*

Fangelsi og meðferð á föngum getur skoðast sem eitt af þeim atriðum sem koma upp um mannúð eða mannúðarleysi þjóðfélaga. Í fasísku þjóðfélagi er fanginn réttlaus, pyntaður og ofurseldur ómanneskjulegri meðferð. Í borgaralegu lýðræðisþjóðfélagi er fangavistin refsing, nk. útrás hefnigirninnar fyrir það að fanginn hefur brotið boð þjóðfélagsins en minna hugsað um endurhæfingu. Út úr fyrrnefnda fangelsinu á fanginn sjaldan afturkvæmt nema þá lemstraður á sál og líkama.

Út úr því síðarnefnda á hann afturkvæmt og þangað liggur leiðin gjarnan aftur vegna skorts á endurhæfingu.

Með þessa kynningu að veganesti þótti okkur sem heimsóttum Kína í vor rétt að kynnast fangelsismálum þar af eigin raun, sem gestir.

Eitt stærsta fangelsið í Sjanghæ varð fyrir valinu. Þar eru rúmlega 2ooo fangar og af þeim konur 2oo.

Fangelsið sjálft er stórar byggingar með steyptum gangstígum á milli. Þessi hálfskuggalega bygging var reist einhvern tímann á árunum 1906-25 af enskum heimsvaldasinnum en þeir áttu einmitt rík ítök í Kína á þeim tíma.

Á stjórnartíma Kuomintang, sem ríkti með aðstoð m.a. enskra og japanskra heimsvaldasinna, var fangelsið óspart notað til að loka inni kommúnista og aðra þjóðernissinna. Fyrir byltingu gekk það almennt undir nafninu Human Hell eða Helvíti manna.

Þá var það notað eins og lýst var hér að framan þar sem lýst var fangelsi í fasísku þjóðfélagi. Pyntingar voru algengar. Einn klefinn kallaðist klefi árstíðanna vegna þess að á vetrum snjóaði og rigndi inn. Annar pyntingarklefi var Gúmmíklefinn. Opinberir aftökustaðir, gálgar , voru í garðinum en auk þeirra voru til leyniaftökustaðir.

40 SÍÐUR MEÐ 4 SÍÐNA ÍÞRÓTTABLAÐI
Morgunblaðið

VÍSIR
MEST LESNA SÍÐDEGISBLAÐ LANDSINS
Johannes Páll páfi lést í morgun

Tíminn
Guðmundur G. Þórarinsson:
Rán og gripdeildir
Sjá bls. 7
Ritstjórn 86300 · Auglýsingar 18300 · Afgreiðsla og áskrift 86300 · Kvöldsímar 86387 & 86392

ÞJÓÐVILJINN
2. október 1978 — 215. tbl. 43. árg.

Síðdegisblöðin hunsa verðlagsyfirvöld
20% HÆKKUN Í STAÐ 10%

# Prentfrelsi til að græða

Sem kunnugt er hafa forráðamenn dagblaðanna deilt við viðskiptaráðherra um verðhækkun á blöðunum.

Tvo dagblaðanna hafa hækkað verðið í trássi við bann verðlagsyfirvalda. Annað þeirra er Dagblaðið. Ef ég man rétt var það einmitt Jónas Dagblaðsritstjóri sem fann upp orðið þrýstihópur og kemur því vel á vondan að vera sjálfur orðinn þrýstihópur, sennilegast þó sá minnsti í landinu.

Af þessu tilefni hafa forráðamenn blaðanna og blaðamenn þar sent frá sér furðulegar yfirlýsingar um prentfrelsi. Telja þeir verðstöðvun á dagblöðin vera "tilræði við prentfrelsið".

Þetta leiðir til spurningarinnar um það hvað sé prentfrelsi. Fá orð misnota borgaraleg öfl eins mikið og orðið frelsi. Frelsið í auðvaldsþjóðfélaginu er frelsi þeirra sem eiga fjármagn. Prentfrelsi er frelsi hvers og eins til að gefa út á prenti það sem honum sýnist. En þetta frelsi takmarkast af efnum og ástæðum hvers og eins. Til að geta notið þessa frelsis þarf að hafa efni á að gefa eitthvað út á prenti. Þetta viðurkenna blaðaútgefendur í raun því þeir segja vegið að prentfrelsi þegar þeir fá ekki að hækka verð blaðanna. Þannig er prentfrelsið í munni blaðaútgefenda orðið spurning um hámarksgróða þeirra sjálfra, þ.e. stjórnmálaflokka, bílainnflytjenda og braskara.

Prentfrelsi er annað og meira en gróði af útgáfu dagblaða. Prentfrelsi gefur hverjum og einum rétt til að gefa út á prenti hvað sem er. Það verður ekki raunverulegt fyrr en því verður þannig fyrir komið að fólki sé gert kleift fjárhagslega að gefa út á prenti.

Verð hinna meira og minna ritskoðuðu dagblaða er því varla spurning um prentfrelsi.

Sameiginlegar 1. maí - aðgerðir KFÍ/ML og EIK(m-l) 1976

# Umræðufundur KFÍ/ML og EIKm-l

Síðastliðinn fimmtudag var haldinn kappræðufundur milli EIK m-l og KFÍ M/L. Fundurinn var haldinn að Hótel ESju Á honum hafa verið rúmlega hundrað manns. Haldnar voru framsöguræður af hálfu beggja samtakanna. Ari Trausti Guðmundsson formaður EIK m-l helt framsöguræðu fyrir hönd EIK m-l og Gunnar Andrésson formaður KFÍ M/L fyrir hönd Kommúnistaflokks Íslands M/L.

Í upphafi ræðu sinnar minntist Ari á að nauðsynlegt væri að líta til baka, er við mætum ástandið í kommúnisku hreyfingunni. Sagði hann m.a. í því sambandi að íslenskur verkalýður hefði misst forystusveit sína árið 1938, þegar Kommúnistaflokkur Íslands var lagður niður fyrir tilverknað endurskoðunarsinnanna þar. Síðan þá hefði ekki verið til neitt afl sem leitt hefði baráttu verkalýðsins. Í framhaldi af þessu sagði hann frá uppkomu marx-lenínisku hreyfingarinnar á Íslandi upp úr 1970. Samanstóð hún aðalega af mönnum sem hefðu fengið uppeldi sitt í Svíþjóð og Noregi. Hefði þeir borið með sér óskipulagðar og að mörgu leyti rangar hugmyndir. Hann sagði að grundvallaratriðin þrjú sem yrðu að vera til staðar svo hægt væri að stofna kommúnísk samtök væru: Stunda nám í marxismanum lenínismanum og hugsun Mao tse tung. Að viðurkenna lýðræðislega miðstjórnarvaldið. Mynda skipulögð tengsl við verkalýðinn og sameina alla marx-lenínista.

Stofnuð voru samtök árið 1972 sem nefndu sig KSML og sagði hann þau hafa verið skemmdarverkasamtök sem hefðu borið með sér hugmyndir frá sænskum vinstri endurskoðunarsinnum og hefði stefna KSML verið í öllum höfuðatriðum röng. Réðist hann á gula bæklinginn svonefnda sem inniheldur ályktanir fyrstu ráðstefnu KSML.

Í þessu atriði sem svo mörgum skaut hann langt yfir markið því KSML og KFÍ/ML eru löngu búin að gera upp við bækling þennan. Í bréfi til EIK m-l frá 1975 segir að starf og stefna KSML hafi verið í mörgum atriðum röng fyrstu árin sökum lítillar pólitískrar skólunar félaganna en með auknu starfi innan bæði verkalýðsfélaganna og ýmissa samfylkinga, ásamt stöðugu námi í marx-lenínismanum hafi KSML þróað fram rétta pólitík í meginatriðum. Mikil barátta átti sér stað innan KSML um t.d. starfið innan verkalýðsfélaganna, sem leiddi til þess að klofningur átti sér stað. Þeir sem vildu að stofnuð yrðu ný verkalýðsfélög gengu út úr KSML.

Ari sagði einnig að stofnun EIK m-l hefði verið meðvituð stofnun fárra kommúnista. Villur þeirra hefðu verið fáar og smáar. Aðeins ein stór villa hefði komið fram, sú að skilgreina höfuðmóthverfuna í auðvaldsþjóðfélaginu sem : Alþýðan gegn einokunarauðvaldinu. Ekki minntist Ari á að stefna þessi hefði valdið rangri línu í starfinu innan fjöldahreyfinganna og víðar. Ekki minntist hann á það hversu skyndilega var tekin upp rétt afstaða í þessari spurningu. Ástæðan var nefnilega sú að í Noregi fóru fram geysimiklar umræður um þetta mál og komst norski verkamannaflokkurinn AKP m-l að því að þetta væri hægri endurskoðunarstefna. Greinilegt var að þarna var um að ræða fljóta stefnubreytingu að hálfu EIK m-l og ekkert uppgjör var gert við hana lengi vel.

Að lokum sagði Ari ma. að ekkert nýtt hefði komið fram í svari KFÍ M/L til EIK m-l sem birtist í seinasta tölublaði Stéttabaráttunnar. Við hverju bjuggust þessir menn? Kannski hafa þeir búist við að flokkurinn myndi snarsnúast til fylgis við allt það sem EIK m-l hefur sagt og gert.

Gunnar Andrésson formaður Kommúnistaflokksins sagðist ætla að gera athugasemd við nafn fundarins. Þ.a.s. að kalla þetta kappræðufund, þetta ætti að vera umræðufundur milli samtakanna, þar sem ætlunin væri að ræða leiðir til sameiningar allra marx-lenínista í einn flokk. Hann sagði einnig að alltof mikið hefði það einkennt starf marx-lenínista að vera með sífellda frasa og orðalagsbreytingar. Það væri t.d. rétt að kalla heimsvaldastefnu Sovétríkjanna drottnunarstefnu ef það yrði til þess að við gætum samfylkt fleirum um það orðalag.

Varðandi ræðu Ara sagði hann að þeir menn sem ekki vildu umræður á milli samtakanna væru á móti sameiningu. Mynda þyrfti pólitíska og starfslega einingu á milli samtakanna í framtíðinni með

Framhald á síðu 2